# Minning
Sälugu Frúar
# Sigríðar Stephánsdóttur Stephensen.

Framsett við Hennar Jarðarför
þann 20ta Nóvembr. 1827.

Skráð og útgéfin
af Hennar Tengdaföður og Föðurbróður
Dr. Magnúsi Stephensen,
Conferenceráði og Justitiario í Íslands
konúnglega Landsyfirrétti

Videyar Klaustri 1828.
Prentuð af Faktóri og Bókþryckjara
G. J. Schagfiord.



Sáluga Frú Sigrídur Stepháns-dottir Stephensen var Dóttir þess almennt heidrada og tregada Amtmañs yfir Islands Vestur-Amti, Stepháns Stephensens og hans gódfrægu Frúar Morthu Maríu Stephensens, hverra loflegu og Landi voru uppbyggilegu sambúdar og dygda er getid í Æfi- og Utfarar-Minningu þessa sáluga Merkis-manns, eins og um Ættgöfgi hans, annars alkunna. Þar er og vitnad til ádur prentadra Ættartalna

vid Æfisögur: Systur hans, sálugu Biskups Frúar Þórunnar Olafsdóttur, Stiptamtmanns yfir Islandi O. Stephánssonar og sál. Biskupanna Drs. F. Jónssonar og Drs. H. Finnssonar, svo hana þess vegna gjörist ecki þörf hér framar ad útlista.

Hún fæddist í þenna heim ad Innrahólmi á Akranesi í Borgarfjardar Sýslu, þann 30ta Aug. 1792, hvar Foreldrar Hennar um fyrstu árin þá sátu búlaus í Foreldra húsum; en þegar hinir árid 1793 reistu bú ad Hvanneyri í sömu Sýslu og þessir fluttust s. á. sudur til Videyar Klausturs, fylgdist Hún á fóstri þángad med Afa sínum og Ömmu, hvar Hún naut uppeldis og mentunar í flestum þeim handydnum og listum, sem helztu Stúlkur af Hennar Ætt og Stétt á Hennar aldri prýda mega; einkanlega, í Ömmu sinnar ald-

urdómi, undir handleidslu sinnar heidrudu, gódfrægu og mørgum nýlega harmdaudu Fødursystur, Frú Ragnheidar Schéving, hverrar fyrirtaks dygdir fjølda manna eru fullkunnar og þar hjá fyrir sjónir leiddar í hennar, á nærstlidnu ári, á prent útkomnu Minningu, uns hún á Michaëls=messu 1804 giptist Cancellirádi J. Schéving; vard vor sæla Frú Sigrídur af øllum þessum eins innilega elskud og þó Hún verid hefdi egid barn þeirra, hvad þau øll, eptir sérhverju þessara svo egiulegri høfdings lund og manngædsku, létu alla tíd merkilega ásannast um þeirra samvistar tíma, á medan hvert þeirra tilendtist, bædi í ordi og verki.

Eptir dauda Ømmu sinnar, sálugu Stiftamtmanns Frúar Sigrídar Magnúsdóttur Stephensen haustid 1807, fann sálugi Amtmadurinn

Fadir vorrar elskudu Frúar, þá sjálfur Eckill og einstædíngur ordinn, benta, sér til yndis og adstodar ad taka þessa sína hjartkjæru dóttur beim til sín aptur 1808, jafnframt til frekari umsjónar, mentunar og æfíngar vid búsýsl, landbúnad og innivinnu, enn hann þareptir fyrir hana gjordi sér von um í Videy hjá Afa Hennar, sem nýp frá dauda Frúar sinnar yfirbugadist svo af sorg og sjúkdómi, ad hann framar finnti litlum afskiptum á búi sínu í hans lasburda aldurdómi. Undir Fodursins eginn umsjón og leidsogu hans sídari, lengi og vel æsdu, ferdugu og jafn-gódfrægu Frúar, **Gudrúnar Oddsdóttur**, nú aptur giptrar Sýslumanni **Þórdi Sveinbjarnarsyni** — sem og gékk henni í gódrar módur stad í vollu— vard vor nú sárt saknada Frú **Sigrídur Stephánsdóttir**, sem af Skaparans gódgirni sjálf var svo ríkuglega

útbúin med einhverjum þeim bestu nátt-
úru-gáfum og hjartalagi, á gjafvaxta
aldri sá qvennkostur, sem þá var tal-
inn einnhverr hinn ágjætasti á voru
landi, þegar Hún þann 21ta Júníi
1819 var gésin af elskads Födurs hendi
í hjónaband med Hennar frænda og nú
eptirþreyanda Ektamaka, núverandi
Vice-Jústitz-Sekretéra í þeim konúng-
lega Landsyfirrétti Olafi Stephen-
sen Drs. Magnúsa; vard þeirra sam-
búd allt til dauda vorrar nú sálugu
Frúar, óbreytt einhver hin ástríkasta,
sem finnast má, jafnt ad beggja hálfu.

Þeirra hjónasæng blessadi Forsjón-
in med 4 börnum, hverra 2 eru látin,
nefnil: Sveinbarn, sem 1821 strax
deydi vid svo harda fædingu þann 15da
Dec., ad líf Módurinnar naumlega
vard frelsad, sem þó tókst med adstod
Guds, vid sérlegn vidburdi Mágs Hen-

ar, Land-physici Jóns Þorsteins-sonar og brúkun Fædingar-tángar, þó sú harda fæding olli Henni heilsubilunar *) — og Dóttir skírd Martha María, eptir Módur Hennar; fædd-ist sú 12ta Okt. 1824, en deydi í Vid-eyu 16da Sept. 1826 og er hennar Grafminníngu ad lesa í Klausturpósti fyrir 1826 á bls. 164, svolát-andi: **). Eptirlifandi fylgja nú tvær

*) Sá Sveinn var jardadur med þessari Grafskrift:
Felur, hér. gröf. hjá Födur-Systur,
ónefndann. Son,
OLAFS. STEPHENSENS,
(Candidati Juris)
Fæddann, og. dáinn. 15da Dec. 1821.

Leit varla vid jörd, ádur líkhams böndum,
Fleygdi frelsud Sál; flýtti för heim;
Er hún sæl algjörd í Alfödurs höndum,
Engla nemur mál, Engill med þeim.
Þá Minníngu setti Afinn
M. Stephensen Dr.

**) Haust-lilja. spratt. á. Hólmi. Innra.
Fögur, sýnum, frábær, ad, edli,

Dætur Líki sinnar bestu og dygdaríkustu Módur til þess sídasta legstadar, samharmandi þeirra sorgmædda Födur, náúngum og vinum vorn allra sameginlegann missir, nefnil. Gudrún, heit-

---

MARTHA. MARIA. STEPHENSEN.
(Þann. 12ta. Októbr. 1824.)
Vard. sú gródursett. ad. Videyar. Klaustri.
(1825)
A. Hans. blés. þar. andi. Drottins.
Visnadi. því. upp. á. Vori. lífsins.
Fékk. Vetrar. værd.
(þann. 16da. Septembris. 1826.)
Svo. veglegri. birtist.
Ad. endurlífgunar. Al. heims. Vori.
Syrgja. Foreldrar. sakna. Frændur.
Svo. vonar-fullrar. og. vænnar. Lilju.
Huggast. um. skammt. ad. Hennar. fundum

---

Allt líf jardar um-mindunar bídur,
Orma fjöld, sem' þúngt um duptid skrídur
Fleyg ad vori hefur sig í hæd.
Fölnada þó fold hér Lilju geymi,
Fegri Hún í sælla blómstrar heimi,
Prísar líf og lausn af innstu æd.

Svo minntist
kjærrar Sonar-dóttur Afinn
M. Stephensen Dr.

in, sinnar af dád og qvenndygdum svo góðfrægu Dunnu Conferenceráðinnu Frú Guðrúnar, nafni, fædd 16da Okt. 1820 og Sígríður, eptir sinni sál. gódu Fodursystur, sem deydi 19da Aug. 1805; er hin únga fædd 22ann Maji 1823. Oll þeirra 4 børn fædd-ust ad Innrahólmi, hvar Foreldrar þeirra reistu bú vorid 1819, en flutt-ust sídan búferlum sudur á tvo þridju parta Videyar 1825, hvar uppáfall-andi mikil óáran og vetrar-hardindi, þetta og fylgjandi ár, felldu mikid af þeirra bústofni, sem margra, en sú megna 1825 og þareptir vída um land vort geysandi sótt med andarteppu hósta, sem lagt hefir hér svo margt manna á øllum aldri í grøfina, yfir-féll vora sál. Frú, med mestu brjóst-þýngslum og varanlegri hæsi upp þad-an, sárum verkjum um brjóst, bak og sídur, vid hverja sjúkdóma sídan vyrd-

ast blandast hafa arfgeing Iktsýki eptir Hennar sáluga Fodur, tídateppa og óregluleg umrás blódsins, sem sokti uppeptir, vid hverju ollu strax og sífeldt var af manni Hennar leitad allrar mogulegrar Læknis-hiálpar, í hverjum tilgángi Hún líka á nærstlidnu Sumri dvaldi um hálfsmánadar tíma hjá Mági sínum í Nesi; en þessi megni siúkdómur lét vid allar gjordar tilraunir alls eckert undan, eda hóstiun, heldur snérist upp í skjædustu brjóstveiki, sem lagdi vora sál. Frú, vid og vid í rúmid og nú stodugt frá haustnóttum, uns hold Hennar tærdist upp, kraptar og fjor smámsaman þverrudu undir sárustu þjáníngum og lifid siálft, þann 2ann Nóvembr. nærstlidna um nónbil loksins slokuadi út, sem ljós í fadmi Hennar heittelskada Ektamanns, sem þvínær, aldrei skildi vid Hana, heldur leitadi Henni, á allann uppþenkjanleg-

ann hátt mögulegustu aðhjúkrunar og svlunar nótt og dag, í návist Tengdaforeldra og þeirrar þjónnstustúlku sinnar, sem Henni stöðugt með sérlegustu náqvæmni í öllu hjúkraði, hver nú öll, ásamt Fósturbörnum og hjúum, samsyrgja Hennar Ektamanni, missir dygðaríkustu Konu, Dóttur, Fóstur- og Húss-móður, en eptirlátnar tvær Dætur, þeim óbætanlegann Móður-missir þeirra, á þeim barnsaldri, sem þau eñ ecki máttu móður-líknar sakna.

Frú Sigríður Stephánsdóttir Stephensen er nú samt liðin; að boði þess Alvalda og vilja gjæðskurikrar Forsjónar, er Hennar nú eilífflega sæli andi, heim aptur farinn til þess Guðs, sem gaf hann, oss til unaðsemdar og heilla um hríð, til stundar dvalar á jarðríki. Hún er dáin, nefnilega Hennar forgengilega — eður líkaminn —

er skilinn frá Hennar ódaudlega anda, til ad verda dupt jardar ad nýu, hvadan hañ kom; en Hennar dygda og qvennkosta, Hennar frábæra atgjørfis, náttúrugáfna og gjædsku minníng deyr aldrei og hún skal nú fyrir oss endurrysja, þessarar Merkiskonu yfirburdi yfir meiri fjøldañ af Henni samtída Konum.

Af Skaparans mildu hendi, hafdi Hún þegid dáfrídann og yndislegann, réttvaxinn líkama; Hún var med hærri konum á voxt, enn þó lima nett og allt í yfrid fogru skepulagi. Augun bláleit, medalstór, skarpleg, blídleg, spilandi, sambodid Hennar innra manni og sálargáfum. Andlitsfall kríngluleitt, bjart, med fegrum kinnarósum, uns þessar í næstlidin 2 ár, tóku ad følna nockud. Allt var í frídleikans formi lagad, en andlit id munn- og nasa-nett, þyckleitt; hendur og allur líkamans voxtur nettur, því fag-

ra útliti sambodinn; hárid ljósleitt nock-
ud; allt baud af sér inntakandi bocka og
blídu. Sálin flugskörp, spilandi gáfum
og greind gjædd, med skarpvitrum, nett-
um, spaugsomum og jafnan gladværum
innfollum, lögud til ad gledja Henni ná-
læga og skémta þeim; á stundum báru
þau keim af sneidanda skopi, en ætíd í
kurteysasta ordalagi. Málfærid skírt,
mjúkt, ástúdlegt; roddin, til seinustu
tveggja áranna, þá hæsin tók fyrir Henn-
ar yndislégu róma, hrein, skjær, hvell
og frammyfir flestar konur hér á landi,
snjoll, há, lidug og frábær til saungs.
Umgengni vid alla, háa og lága, mann-
kjærleg, blíd, gódsamleg, en undireins
einardleg. frí og djörf og skémtandi; vid
hjú hrein og bein, einlægni og velunnun
blondud vid yfirbodunar hógværd og
alvörugéfni, sem þarhjá lét í ljósi rogg-
semd ad halda hverjum til skylduverka og
alúd í, ad laga undirgéfinna bresti, med

skynsemd og gódsemd; æfa, menta og venja þá til starfsemi og forsjálni og þeirra dygda, sem heita sínum dýrkendum heill og ástsæld. Í hvern hóp manna, sem Hún kom, var Henni fagnad med allra vyrdíngu og ánægju; hin stód óbreytt, en þessi breyttist í sorg vid Hennar bana-bed. Gédslag Hennar var samt stjótlyndt, hvad þó greind og stillíng optast tempradi. Hjartad eitthvert hid besta konum gésid, fullt af vyrdíngu og þacklátsemi vid guddómlega Forsjón og stjórn, bædi á Hennar blídu og strídu lífskjörum; fullt trúar og Gud-rækni, og vyrdíngar fyrir skylduverkum, fyrir dygdinni, fyrir sérhverju gódu, loflegu, sidsömu og uppbyggilegu; fullt af manñkjærleika, lítillæti, ástúd, gódvild og medaumkun vid alla, einkum bágstadda og naudlídandi; af örlæti og áhyggju, ad bæta úr svo margra neyd og báginðum, sem efni Henni leyfdu; af óslítanlegri

trygd, trúfesti, þacklátsemi og ættrækni vid vandamenn, vini og velgjörara; af trausti til Guds og þolinmædi, sem ecki lét eitt einasta möglunar-eda óánægju ord yfir kjörum sínum falla í öllum Hen-ar laungu og sáru þjáníngum, heldur fol sig med öruggu trúnadartrausti á vald Guds miskun og födurlega vilja og beid svo rósom sinnar andláts stundar. Sjálf var Hún hyggin, upplýst og prýdilega mentud til munns og handa og med allri sinni rausn og gódvild, kona drífandi, for-sjál, sparsöm, þrifin og hagnýtin á búi; héldt allri vinnu vel fram, innanhúss handydnum og margvíslegum vefnadi, en mentadi fúslega í því og saumum, gódri matar-medferd og vandadri mat-reidslu, mörg hjú sín, sem öll hlýddu Henni med audsveipni, virdtu Hana og elskudu, sem bestu Módur; enda var Hún þeim sjálf í öllu dygda og dugnad-

ar,

ar, yndi og sparsemdar, trúrækni og siðsemdar, fögur fyrirmind.

Þó hér sé nú einúngis Hennar fráþæru qvennkosta gétid, því annad hæfir ecki vid Heidurs minníngar, væntir samt engiñ framar á jardríki ad fiña algjört fullkomlegleikans eptirdæmi á medal breiskra daudlegra manna, en hverr, sem af færstum breiskleikans áleitunum lætur sigrast og hverjum best tekst hans ástrídu ad yfirbuga, en hvar flestir lofsverdir kostir yfirgnæfa, verdskuldar eptirlifendra söknud og Heidurs miñingu. Þessi bera Frú Sigrídi Stephensen med því meira rétti, sem Hún var sins elskada Ektamanns, Födur, Tengdaforeldra, sinna barna, Fósturbarna og Náúnga frábærust unan. Med Henni féll og hvarf þeirra besta máttarsted, yndi og Hennar ættmanna gledi, því — Hún var Mañi sinum jafnan hin blídasta og

eptirlátasta Kona í øllu til Siñar andláts stundar; hans vilji var ætíd Heñar eins og Hennar hans. Hún vildi honum allt til heidurs og þócknunar vinna, svo leynt sem ljóst, jafnt í heima- og framandi manna vidurvist, í verki, vidmóti og ordum; Foreldrum sínum eins, en Bornum sínum og Fóstur-børnum var Hún sannkøllud besta Módir; Ættmanna unan og athvarf naudstaddra; I stuttu máli: Hún komst í dygdarlíki øllu hvad nærst því vídfræga Fødur-Ømmu nafni, sem Hún sjálf bar; því med Henni deydi ættar Hennar frábært **Qvennval**; samt deyr aldrei Hennar **Dygda-minning**, né sá saũi ordstýr: ad Hún var ættjardar siñar og Ættar sómi. Vid Hennar andlát leid hédan á burt ein af þeim gøfugustu Sálum, sem bygdu íslendskt Konu-brjóst vorra daga, í hønd Heñar mildasta Gjafara.

---

A Lík-kistu sálugu Frúar Sigrídar Stephensen, var festur Tin-skjöldur og á hann stúngin þessi

Graf-minning:

Blundar. hér. vært. í. bedi, grafar.
Frábært. Qvennval. Frúa Prýdin.
SIGRIDUR. STEPHANSDOTTIR.
STEPHENSEN.
Ekta-Frú. Vice- Jústíts - Sekretéra.
OLAFS. STEPHENSENS.
Honum. gipt. xxi. Júnii. MDCCCXIX.
Fædd. xxx. Aug. MDCCXCII.
Örend. II Nóvembris. MDCCCXXVII.
Fjögra. Barna. mætust. Módir.

Módir. aumum. Síns. Maka. yndi.
Af. gáfna. snild. gædsku. dygdum.
Trygd. lofsæl. og trúar-rækni.
Ættar. Hjúa. og. allra. gledi.

---

Hjartkjar Dóttir! *Himins besta gjöf!*
Þinn *um legstad lengi tár mun flóa,*
*Lofstýr fagur* Þína'*um minning' gróa,*
*Þúsund trega* Þína *stuttu töf,*

*Engill komstu, Engill qvaddir jörd!*
*Huggast* Ekkill, *Börn og beygdur*
Fadir,
*Bygd í hæda senn* Þjer *fögnum gladir,*
þar *samtaka syngjum Þakkargjörd.*

Hjartkjærri og sárt saknadri
Tengdadóttur setti
Magnús Stephensen *Dr.*

Þessi Graf-minning er nú brádum væntanleg med gylltu Letri á svörtu Spjaldi, undir skjærugleri og í gylltri umgjörd, ætlud til ad festast upp í Videyar kirkju; en sídan um skammt úthöggvinn Legstein med nockud styttum Graf-minninga Letrum beggja þeirra burtsofnudu Mædgna, Frú Siarídar Stephánsdóttur og Morthu Dóttur Hennar, til ad leggjast yfir Leidi þeirra í Videyar Kirkjugardi.



Adur enn Líkid var súr Videyar Stofu úthafid og borid í Kirkjuna, géck Prófasturinn í Rángár Þíngi, Herra Helgi Thordarsen, framm ad Lík-kistunni, eptir þad 3 fyrstu versin í Sálmabókarinnar No. 220 vóru á undan spilud á Orgel og héldt vid hana eptirfylgjandi snjalla

## Rædu:

Hærstvyrdtu Tilheyrendur!

Þad var Vinur, trúfastur og ástríkur, hverjum eg unnti líkt og sjálfum mér, sem qvaddi mig híngad af fjærlægum stad, máské í þeirri trú, ad eg, ígégnum kjærleikans og vináttunnar tilfinníngu, gæti leidt einhver huggunarinnar ord inn í þad hrellda hjarta, gæti létt nockud þeirri þúngu byrdi med því, ad taka uppá mig nockurn part af henni — og vissulega var þad engum skyldara, vissulega skal enginn gjøra þad med betra gédi — Eg flýtta mér frá einni Ástvinar gröf*), er nú hér staddur vid adra og finn nú

*) ɔ: Síns nýsadda Sonar Gudmundar.

þúnglega til allra vanqvæda þeirra minna harma, sem ecki eru enn grónir og sem svo stórum ýfast vid þad djúpa sár, sem hæst hefir einn minn besta Vin, vid þad tjón, sem einnig hefir snortid mig í burtkellun minnar ástkjærustu Teugdasystur, sálugu Frúar Sigrídar Stephensen. Eg fæ ecki dulid minn velkleika; ángurvær tilfinníng dregur mig, Hærstvyrdtu! til þeirrar sorgar, sem máské er í þessu Samqvæmi midur sæmandi, en þó vil eg ecki leitast vid ad sýnast annar enn eg er; því Leirkérid segir ecki vid smidinn, sem gjørdi þad: því gjørdir þû mig svo?

O! þær daudans hugleidíngar! hversu alvarlegar eru þær øllum þenkjandi? sálin dvelur vid þær med sorg. Ad sjá einn deya, ad vera kalladur til ad fylgja einum til grafar, er máské þad hátídlegasta, þad alvarlegasta augnablik í mannlegu lífi. Þeir lifendu sjá þar sín forløg, sjá þar endir sinnar hérvistar; von og ótti skiptast um í þeirra hjertum, því enginn þeckir þad land, sem liggur hinummeginn grafarinnar. Allir þánkar eru reykandi, uns manni

med barnlegri sorg luckast ad finna Födurinn á himnum; þá fær hjartad fyrst sanna fró vid þann þánka, sem endar alla adra þánka, sem yfirgnæfandi í krapti og lífi hertekur svo alla mannsins veru, ad hann grátandi varpar sér í hans fadm; þar finnur hann fyrst hvíld sálu sinni, umvafinn kjærleikans vebøndum. O hvad eg vildi dvelja vid þenna þánka og ecki þurfa á þessu stundarkorni ad minnast jardarinnar og hennar mótlætínga! En — eg sje hér fyri mér Kistu þá, er geymir helgann dóm framlidinnar Systur; eg þeckti Hana á upprennanda aldurs skeidi svo fagra, sem rósina, saklausa, sem úngbarnid, útbúna af Skaparanum med framúrskarandi gáfum, svo þad munu allir segja, sem Hana þecktu, ad vart mundi hjá annari Konu fremur hafa sameinast sálar og líkhams yfirburdir; auk þessa geymdi Hún eitthvert hid besta hjarta, sem engann gat aumann vitad; Hún ofradi med þessu pundi; aldrei leit eg Hana gladari, enn þegar Hún hafdi, sem opt var, vidhjálpad einhverjum aumstøddum. Géstrisin var Hún, sem Fadir Hennar; Hún var Húsmódir hin besta, hvad allt Henn-

ar fólk ásamt mér skal sanna með verðugum harmi, með þeim orðstýr, sem fenginn af þeim, er daglega umgenguſt Hana, ecki gétur álniſt ógrundaður. Barna ſinna beſta Móðir, ſem fór meðalveginn í afhaldinu og miðaði það við þeirra ſennu heillir, aðfinníngaſem á réttum ſtað og tíma með øllum Móður-hjartans edla tilfinníngum. Mann ſinn gat engin Kona fremur elſkað enn Hún. Þetta er ſtutt, en eg veit ecki betur enn ſenn lýſíng hinnar Sælu; allt þetta varð ſamtaka til að minda eina þá beſtu og fullkomnuſtu Konu; í tølu þeſſa Lands fyritaks qvenna hefði Hún orðið einhver hin ypparſta, ef aldur og reynſla hefðu náð að leiða Hennar mikla fyritaks gáfur til þeſs fullorðins þroſka, ſem engum dauðlegum veitiſt ødruvíſi, enn ígégnum ſtríð og baráttu og ýmisleg atvik þeſſa lífs. En — Hún deydi á líffins fegurſta aldurs ſkeiði — o þann ſorglega viðburð! — að ſvo algjørð æſku-ár ecki ſkyldu fá að ſjá ellinnar uppſkéru-tíma! að ſá vongóði ellinnar qvøldroði ſkyldi ecki fá að prýða þann dag, hvers morgun-roði var ſvo óſegjanlega fagur! O! hvernig ſkyldi oſs vera til géðs, þegar vér þann-

ig sjáum þann lidinn, sem ádur geck vid hlid vora um líssins veg med svo fríska ysirbragdi! sem í sálar og líkhams úngdóms fjeri sýndust álengdar boda lánga æfi! sem umkríngdir af vinum, med saklausri úngdóms fró í hjarta sínu, hverki krepptur af ára-fjølda, krøm né hugarsorgum, vyrdtist álíkur eikinni, sem uppsprettur á vatnabeckum! O! hvernig skyldum vér géta minnst á þenna dauda, sem hannig adber í lífsins bestu árum, án þess ad láta oss til hjarta gánga þad óttalega veldi, med hverju daudinn særir jardar-búana, án þess ad láta oss hugfast, ad jafnvel hinn fullkomnasti, gladasti og sælasti madur þó er mold!

Víst er þetta sorglegt, jafnvel fyri þann, sem álengdar horfir á þetta; en— miklu sorglegra má þad samt verda fyri þ a n n, sem misti sinn kjærasta vin, sem hann hafdi kosid sér til samfylgdar um líssins veg og um hvers gódu eginlegleika hverr dagurinn, svo ad segja, var honum nýr vottur; hvers elska sýndist því innilegri og fastari, sem lengur var samanbúid. O! Þér, minn Bródir! hverr vill ofmála Yð-

ar harma? enginn gétur þeim nærri nema sá, sem réttilega þeckir Ydar hjartans trygd og þá innilegu elsku, sem Þér ætíd bárud til hinnar Sálugu. Mér ætti ad vera þad kunnugt og því kunnugra, sem mér er þad, því sízur hefi eg hjarta til ad lýsa þeirri sorg, sem ecki fær dulist, því sú hend er kold ordin, sem ádur svo mjúklega studdi Ydur á veginum; þær vareir bláar, sem svo optlega opnudust til ad veita Ydur ánægju og yndi, til ad draga úr lífsins adkasti og géfa nýann dug ángurbitnu hjarta. O! Ydar sorg er náttúrleg og hverr, sem þeckir sitt egid hjarta, vill dirfast ad lasta hana? Ydar tár eru hjartans mál, þau vitna fyri Gudi, hjartnanna ransakara, ad Þér elskudud Hana, sem nú er skilin vid Ydur til ad gánga inn í Herrans fegnud. En — vér megum þó ecki syrgja svo, ad **vér köstum burt vorum ðrugga módi, hverr mikil laun mun ødlast**; því þad eru heileg sannindi: ad vér **þurfum allir á stöduglyndi ad halda.** Lífsins atvik eru svo morg, sem liggja til ama veiku og tilfinníngarsømu hjarta, ad sérhverr verdur ad stunda eptir stoduglyndi, verdur kappkosta ad

bera sinn kross með trú og sonarlegu trausti á þeim, sem á lagði og minnast þess: að í gégnum neyð og hörmúngar ber oss inn að gânga í Guðs ríki; að mæðan sjálf í Guðs hendi er meðal til vorra sönnu heilla, þegar vér tekum henni með von til hans, sem engum mun uppáleggja þýngri byrði, enn hann fær borið. O! minn kjæri Bróðir! kastið ekki í burtu Yðar örugga móði! vér erum allir í heimsinn börnir með þeim skilmála, að vér ekki skulum einúngis sjá góða daga, þeir vondu— er vér svo köllum — vóru þar settir ásamt. En — Guð lætur alla hluti hnegjast til góðs þeim, er hann elska. Það vyrðist og ekki lítil upphvörfan til huggunar fyrir Yður, að Þér í sambúðum við Yðar sáluga Ektamaka, breyttuð eins og besta manni hæfir; Hennar ánægja og yndi var Yðar; Þér vyrðtuð jafnan Hennar tillögur og í Yðar hjarta var Henni ætíð búið athvarf; Þér elskuðuð Hana, eins og Jesús Kristur elskaði Söfnuðinn. Þessi meðvitund, hversu er hún Yður dýrmæt nú á skilnaðarins sorgar-tíma! á það ekki hér við: að þegar vort hjarta fordæmir oss ekki,

þá hðfum vér frid? Þannig er þad mín trú, ad þvílíkur fridur, þvílík medvitund megi annad kastid, eins og huggari hér ad ofan, tala til Ydar og jafnvel í gégnum sorgarinnar sárustu tilfinníngu géfa hjartanu tregandi enn þó blída ró, géfa því djørfúng til ad gánga inn fyrir Gud í bæn og sonarlegri trú til hans, sem hefir valid saklaust og dygdaríkt hjarta til ad vera túlk sinna náðaríku fyrirheita. O! sá heilagi Andi, sendur af Gudi ellum óspilltum sálum, er þad, sem ber vitnisburd med vorum anda, ad vér séum Guds børn og þurfum ecki ad qvída. Ydur má einnig vera stór huggunar-grein: ad Ydar Elskada eptirlét Ydur sína ógleymanlegu mind á tveimur elskuverdum Børnum, hverra gódur Fadir Þér erud og Henni var daudinn þeim mun bærilegri, sem Hún deydi med því fulltrausti, ad þeim hefdi ecki gétad hlotnast betri Fadir; þau sakna, þau gráta hin smáu og Gud heyrir andvarpanir þess únga, saklausa hjarta. Hann, sem er føðurleysíngjanna Fadir, fær ecki gleymt móðurleysíngjunum. Framvegis megum vér ecki syrgja eins og þeir, er enga von hafa. Náttúr-

an sjálf finnur þann vidbjód fyri dauda og eydileggíngu, sem hamlar henni ósjálfrádt frá því ad vera án v o n a r um annad komanda sælla ástand. Sú raust þrumar í voru hjarta, sem engin esasemd med ellu fær niðurþaggad, sem ad vísu í sorgarinnar ofbeldi sýnist þagna, en tekur sig upp aptur med himneskum krapti. Hún prédikar: að vegurinn til lífsins gángi ýégnum grafarinnar dyr. Trúarbrøgdin stadfesta þessa vora von, því vér egum þann Medalgángara milli Guds og vor, sem og ódaudlegleikann leiddi í ljós, sem grafarinnar rambygda port hefir í sundurbrotid og fullvissad um eptirkomanda líf; ad grøfin er engannveginn sá sídasti stadur, heldur skulu allir þadan gánga til ædri vistarveru; ad daudann sé ad álíta, sem s v e f n, af hverjum madurinn vakna muni til eilífs fagnadar og — hvad meira er — vér munum sjá aptur vora ástvini. Hugsid, sártharmandi Vinur! til þess tímans, þá Ydar Burtsofnada, á því fagra ódaudlegleikans landi, mun koma Ydur á móti med glødu bragdi út af þeim fegnudi, ad þar muni framar enginn skilnadur ské; þángad til verdid Þér ad bída med trú og

von; en þá mun Ydur og verda auglýst, hvers vegna þessi rádstafan var gód. Eg mun siá ydur aptur, ydar hjarta mun fagna og þenna fögnud skal enginn af ydur taka. Þad band, sem sameinadi Yckur, var of heilagt til þess, ad þad gjæti brostid vid nockra gref; ofhreinn og edla var kjærleikans blossi í Yckar hjarta til þess, ad daudinn fengi hann slockt; ofhá er hugskotsins gétgáta um annad ædra og sælla til þess, ad hún skyldi reynast draumur. Nej! — vér skulum siá aptur vini vora. Vináttan siálf, sem samtengdi oss þeim hér í lífinu, er pantur uppá annad og betra líf, hvar hún géti vidhaldist ôroskud um allar eilífdir.

O! vér skulum því huggast láta! ad vísu er ókunnur og mirkur vegurinn í gégnum daudans jardhús; nóttin hylur þad sinni þycku blæu og rotnanin ríkir þar í daudans óttalegu þögn. Svo sýnist þeim, er lifa, en hinir dánu njóta þar fridar og grefin er þeim vegur til lífsins. Hugsum því um þá: þeir eru sælir; engin jardarinnar ângist nær til þeirra lengur; hvad

erum vér ad syrgja? vor egin forløg? elskum vora vini meira enn oss sjálfa; hindrum ecki þeirra frid med vorum harmi; gétum vér verid svo hardhjartadir ad óska þess, ad hjarta, sem er gagntekid af eilífdarinnar fridi, skuli aptur stynja undir tímans plágum? Ad þad auga, sem er búid ad sjá Alfødurs dýrd, skuli þurfa á ný ad fella tár yfir lífsins sorgum? Ad sá, sem af Dómarans hendi hefir medtekid sigur-kransinn, skuli á ný þurfa ad gánga úti lífsins, þessa forgengilega lífs, mædusømu baráttu?

Þú, mín ástkjæra Tengda-systir! Þínar dygdir og afbragds náttúru-gáfur skulu mér ætíd minnisstædar, en þó ecki sídur minnisstæd Þín elska til mín og minna; sú ánægja, sem eg ætíd naut af Þinni nærveru og sú tryggd, med hverri Þú reyndist besta Systir annarar fjærlægrar, sem sú blída Forsjón setti mér vid hend; allt þetta gjørir mér Minníngu Þína óglegmanlega. Æ! ad Þú skyldir svo fljótt hverfa þeim, sem elskudu Þig og virdtu! En— eg vil ecki misunna Þér Þíns sæla fridar; eg vil huggast láta vid þá von, ad eg einnig sitt-

sinn fái ad sjá Þig aptur! O! Þú dýrmæta von, nidurstíg nú af hædum í hjørtu Hennar harmandi Ektamanns, ástríku Tengda-foreldra, Barna, Systkyna og Vina, hverra allra augasteinn Hún var, hugga þá med þinni himnesku málsnild! Því hvad er þad á jørdu, sem líkja megi vid þig? Þú ert sú, sem lýsir oss í efans nætur-mirkri eins og einhver himinsins skjærasta stjarna! Þú ert sú, sem upp-ljómar þad seinasta augna-ráð hins deyanda, med neista hins eilífa ljóssins! Þú, himinsins besta gjøf á vorri Pílagríms ferd! yfirgéf þú oss aldrei! Med hughreystandi von í vorum hjørtum skulum vér þá adskiljast. O! hún fylgi oss hédan! hún fylgi oss, þegar Ástvinir vorir med sínum tárum, med sínu sídasta handabandi svo sem innvígja oss til daudans nætur! O vor Gud! enginn af oss vill gánga í dóm vid þig; vér viljum því ecki syrgja eins og þeir, sem enga von hafa.

Amen!



Ad endadri þessari Rœdu var Líkid útborid í Kirkjuna og á medan súngin þau 2 seinustu vers af fyrrgreindum Sálmi No. 220, hvar eptir Dómkirkju-Presturinn Hra. Consistorial Assessor Gunnlaugur Oddsson fyrir Altarinu héldt eptirfylgjandi snotra Rœdu nálægt Líkkistunni:

# I Jesú Nafni!

Þad er eitthvert hid alvarlegasta og hátídlegasta augnablik á þessari vorri vegferd, nær vér fylgjum andvana leifum vorra ástvina til þeirra sídasta hvíldarstadar! Tregi inntekur vort brjóst, og í gégnum tára-ský störum vér á þær fjalir, sem geyma þad, er jordunni tilheyrir af vorum sártþreidu framlidnu. — O! en vor andi lyptir sér einnig med inndælu hugbodi til annars heims, hvar hann vonar ad fá og hvar vorir sofnudu ástvinir fengid hafa eilífann bústad. Nær þrellandi mirkur umkríngir þá opnu gröf —

nær margbreytt tilfelli og viðburdir í veröld-
líða framhjá oss, sem hradfara ský og hennar
ókta fegurd sveipast í þoku – nær sú, ellum
ógurlega forrotnan bendir nidur í það dymma
herbergi og med þrumandi raustu minnir oss á,
ad þar skulum vér ad jordu verda — o! þá
hverfa aptur þau mirkur, er ógnudu oss; þá
leyptrar á ný huggunar-ríkt ljós fyrir vorum
augum; já, blídlega nálægir hin kristilega trú
sig oss, sem hýrleit módir sínum harmþrúngnu
bornum og hennar hugsvalandi heilaga rödd læt-
ur fagurlega fyrir vórum eyrum, segjandi:
ydar vinir lifa! þeir fóru vistferlum til bet-
ra heims! þar hætta þeir ekki ad minnast
ydar og ad elska ydur! — og þar — hinum-
meginn vid þau dymmu nætur-mirkur, er
adskilja tíma og eilífd, sem nú adskilja yd-
ur og þá, mun ydur upprenna og um ei-
lífd ljóma bjartur og gledilegur samfunda
dagur! Já, kjær og huggunarríkur er sá þánki,
ad vorir framlidnu vinir minnist vor og elski
oss. Til kynnu ad vísu þeir ad vera, er spyr-
ja: Hvernig getur sá þánki verid monnum kjær
og huggunar-ríkur, sem er svo óljós? Hvernig

géta þeir gladst við það, sem þeir ecki géta gért sér neina vissa hugmind um og hvað að eins í mindunar krapturinn skapar með ýmsum, undarlegum mindum, er líða framhjá þeim, án þess þeir géti fest þánka sinn við nockra á medal þeirra? Hverr er fær um að lypta upp því þúnga fortjaldi, er aðskilur tímann og eilífðina? Hvert er það auga, er skygnst gétur um í því landi, á hvers nánasta takmarki gröfin er eða leiðið stendur, sem forgengilegleikans ógurlegi bautasteinn? og — hverr er þaðan kominn, sem skíri oss frá högum og ástandi hinna framliðnu? Já, vér megum að vísu viðurkénna; að þetta sé hulið fyrir vorum augum og að þau séu of skjóskygn til að géta eygt og því síður skoðað það, sem hinsvegar er þeim óvissu: mirkrum, er umkríngja grafir hinna framliðnu og að það dapra ljós, er vorar tilgátur á stundum qveikja, sé áþeckt eldíngar leyptri um miðnætur skeið, sem að eins bregður fyrir og ollir þess, að mirkursins gætir meir eptir enn áður.

O! þér, elskuðu Framliðnu! skyldu þá einúngis yðar leiði í grend við oss standa, sem minn-

isvardar um, ad þér hafid á medal vor búid? Skyldi ad eins ydar minníng hjá oss lifa og ydar blída ímind á stundum svífa fyrir vorum augum? Er þetta þá allt þad, er vér í tilliti til ydar vogum ad vænta, megum vona? Var þad klecka og vongóda bros, er á daudastundunni sýndi sig í ydar brestandi augum, ad eins ennar eydilögdu tilveru, ennar þverrudu vináttu sídasta qvedja? Eda, féll þad ad eins í vort sorglega hlutskipti, ad harma ydar burtför, ad gráta af saknudi, ad minnast ydar med tárum, án þess vér þyrdum vona, ad þér einnig hrærdust af vorri sorg, ad þér einnig gætud ímindad ydur vor tár og metid þau, sem vinir? O! hversu hrellandi væri ecki sá þánki fyri sérhvern þann, sem þeckir vináttunnar inndæla ágæti og sem hefir kénnt á, hversu þúngbært þad er, ad sviptast því hjarta, er elskadi hann af alúd! Nej! ad sönnu er oss ecki leidin kunnug, sem vorir framlidnu ástvinir fóru til heitinna heimkynna, ecki heldur höfum vér þeirra bústad augum litid né vitum hvar hann er; en — ad þeir v i d- v a r i og y d j i, ad hin miklu umskipti, sem vér köllum D a u d a, ecki eydileggi þeirra ædra edli,

heldur gjeri þad háleitara og fullkomnara, — O! þetta vonum vér, þessa vogum vér ad vænta af þeirri eilífu Gædsku! En skyldum vér þá ecki jafnframt dirfast ad vona, ad vorir látnu vinir einnig minnist vor og elski oss? Skyldum vér óttast fyrir, ad þær hugmindir, sem hér vóru þeim yndislegar, lídi þeim þar úr minni, eda þad, sem hér var þeirra hjörtum dýrmætt, skyldi þeim þar þykja lítils umverdt? Skyldum vér meina, ad kjærleikans blídu tilfinníngar, sem gjördu samvistirnar hér á jördu yndislegar, sem eru partur ædri og háleitari tilveru, enn þeirrar, sem hérvistin gétur oss veitt, ad þessar tilfinníngar — segi eg — skyldu útdeya í daudanum? ad vináttunnar heilegu bend skyldu ad øllu slitna vid grefina og hún ad ølluleiti skilja tvø elskandi hjörtu? Nej! í eilífdinni væri enginn fagnudur, í himninum engin farsæld fyri þann góda, sem ecki mætti þenkja um sinn eptirlátna ástvin, sem yrdi ad gleyma því hjarta, hverju hans var svo náqvæmlega sameinad; sem svo trúlega tók þátt í hans sorg og gledi; sem svo manndómslega veitti honum fulltýngi til ad bera forlaganna óblídu og sem fyrst knosadist vid hans burtfer,

sem fyrst þá feck það djúpa sár, er hér gat ald-
rei að fullu gróið. Ó! hvað-sesar þá fremur
vora harma? hvað hughreystir og endurlífgar
svo mjeg vort sorgmædda, sárt-þreyjandi hjerta,
sem sá þánki, sú von, að þeir góðu, sem elskudu
oss hér, einnig þar, hvar þeir nú eru, minn-
ist og þenki til vor með ástúðlegri viðqvæmni?
að viðskilnaðarins sorglega stund ecki hafi svipt
oss þeirra kjærleika, þó hún svipti oss þeirra
sýnilegu, ástsamlegu umgengni og atlotum? að
vor fyrri vinátta muni þeim enn dýrmæt vera,
muni, sem heilagur, óútslockvanlegur logi, lisa
og viðvara um alla eilifð?

Þessum gledjandi þánka, þessari inndælu
von er náskyld sú mikla von og vissa, sem
vor himneski Frelsari og Frelsari gaf oss öll-
um um, að vér á síðan mundum aptur sjá vora
framliðnu, fullsælu frændur og vini. Hann,
hvers orð eru Guðs kraptur, til sáluhjálpar
öllum þeim, sem trúa; Hann, sem ávarpaði
oss alla með þessum himnesku huggunar orðum:
Eg er upprisan og lífið, hverr, sem á mig
trúir, skal lifa, þótt hann deyi. Hann, á
hvern vér trúum, af hverjum vér fengið hösum

ena fegurstu náfnbót og í hvers fótspor vér kappkostum að feta. Hann sagði til sinna Lærisveina: Eg skal sjá yður aptur og yðar hjörtu skulu fagna og enginn skal yðar fögnuð frá yður taka. Með þessum orðum gétum einnig vér ávarpað hverjir aðra, þá vegirnir skilja hér á vegferð vorri! Þessi orð géta þeir, sem héðan fara, vongóðir ítrekað fyrir þeim, sem harmandi eptirstanda. Já, vér munum aptur sjást og samfagna! Of ástúðlegt, ofheilagt væri það band, er samtengði góð og gott eitt elskandi hjertu, til þess, að það skyldi við grofina gjersamlega slitna! Of háleitt væri það hugboð um æðra hlutskipti, er gagntekið hafði þeirra hjertu, til þess, að það verða skyldi glepjandi draumur! Of rótfest og inndæl er sú eptirlángan, hver ecki er á jarðríki upprunnin og hverja eckert á jerðu megnar að festa; sú laungun, hverrar óska og eptirvæntínga takmerk eru á því sjærlæga landi, hvar allt gott, sem hér aðskilst, aptur skal sameinast! O! um of upphafin yfir allt jarðneskt, of himneskt væri þessi eptirlángan til þess að henni yrði ecki fullnægt! — já, vér munum

aptur sjást og sameinast. Því sárari sem oss vard missir vorra vina, því ástfólgnari og dýrmætari þeir vóru vorum hjörtum, þess vissari, þess öruggari er vor von um, ad þeirra og vor sambúd og sameiníng ecki muni um eilífd slitin verda; ad sú ástúdlega vinsemd, er gjørdi vora samveru svo yndislega og luckusæla, einnig hér væri óbrigdul borgun ædra og og háleitara lífs, í hverju hún vidvara mundi án afláts um alla eilífd! O! sá er luckulegur, sem þessa von hefir og sem æ meir og meir ástundar ad gjøra sig hennar verdugann! Er ecki vonin vor hollasti, optsinnis vor einasti huggari á jardríki? Er það ecki hún, sem alleina vidheldur og styrkir oss, nær allt það, af hverju vér hefdum notid og enn fremur væntum oss gledi og heilla, bráſt og olli oss trega? — En hver von kann ad samlíkjast vid þá von, ad vorir framlidnu ástvinir minnist vor og elski oss og ad oss sídan audnast muni ad ná þeirra fagnadarríku samfundum.

Gæddir þessari miklu von, stendum vér hér, heidrada Sorgar Samqvæmi! reidubúnir ad

ad leggja andvana lík þessarar vorrar ástsælu og elskuverdu Frúar í moldugt skaut módur vor allra. Ad Hún nú í himneskum fegnudi, í for-klárudum fedmum Foreldra, Frænda og Barna, minnist Ydar, allra sinna ástvina og enn elski og muni elska Ydur; ad Þér egid vissa von um aptur ad sjá Hana og samfagna med Henni, þad er sá mikli, háleiti, gledirîki þánki, sem, líkur fagurlegum Sendiboda frá ódaudlegleikans ríki, sviptir sorgina sínum biturleika og med himneskum huggunar dropum blandar þann súra bikar, sem sú alvísa og gædskuríka Forsjón nú hefir Ydur fleytifullann borid! Þér vonid víst ecki, heidrudu Vinir! eptir lofrædu af mínum munni yfir þessari sælu Framlidnu! Þau tár, sem allir Þér, sem þecktud Hennar mörgu og ágætu mann-kosti, harmþrúngnir sellid vid Hennar burtför, þau eru hin snjallasta lofræda; Hennar lofsæla Minníng og eptirbreytnisverda eptirdæmi, er hinn fegursti Minnisvardi! Já, hverr, sem lifdi, sem Hún og hvers hegdan og framferdi svo ljóslega taladi; hjá hverjum, eins og Henni, fundust sameinadar: óbifanleg rádvendni og en fegursta rádsnilli, inniteg vyrdíng fyrir trúar-

brøgdunum og óhvikul hlýdni vid fidprýdinnar og fidalögmálsins bodord; hver, sem var svo elskuleg manneskja, svo ástúdleg Húsfrú, svo vidqvæmt elskandi Módir; o! hvílík þarf enga lofrædu, heidrast ecki, þó eg flytji Hennar lofstýr! Til allra þessara og fleiri hrósverdra dygda var hjá Henni grundvøllurinn lagdur undir náqvæmri umsjón tignadra og þjódrækndra Hefdíngs Hjóna, Afa Hennar og Ømmu, hverrar gódfræga nafn Hún bar, og Hennar almennt gódkunnu, nýlega harmdaudu Fedur-systur; þar ædfust Hennar afbragds gáfur í dygdanna og gudræknínnar, í fidprýdinnar og Ættgefgi Hennar og áqverdun samsvarandi mentunar skóla; þar blómstradi þessi vænlega rós og nádi frábæru atgjørfi, er enn fremur jókst og lét sig í ljósi í húsum Hennar almennt heidrada Fødurs, hvern allir gódir Islands Synir trega; þar nam Hún einnig sérílagi þær qvennlegu listir, þá kunnáttu og snild, sem prýddu Hana, bædi sem einhverja hina bestu Húsmódur og ena elskuverdustu Ekta-Hú'sfrú og, sem jafnframt midudu til ad stjórna sínu húsi med forsjálni og dugnadi; ad efla og frama búheillir med hagsýni

og verk-kjænsku; ad ávinna sér elsku og virdíngu hjúa, med blídu og fyrikonulegri, en þó hvervetna hógværri reggsemi, samfara innilegri ástúd og otulu fylgi ad gjøra sambúdina med sínum heittelskada Ektamanni yndislega og hagsældaríka. Allt þetta heppnadist vorri sáttþrejdu sælu Frú med addáanlegri gæfu, eins og þad, ad allir, ædri og lægri stéttar, Ættmenn og vandalausir, er þecktu Hana og umgenguſt, unnu Henni hugástum, heidrudu Hana og virdtu; þad var heldur ecki ad undra, því þar bjó mjøg elskuverd sál í einhverjum hinum fegursta qvenn-líkama; því hjá Henni var samfara høfdínglegt vidmót og lítillæti; hjartagædska og ljúflyndi; inntakandi gladværd og yndisleg blída. Fagur fór og ordrómur af rausn Hennar og hefdíngsskap; af frábærri géstrisni og hjálparfúsu hjartaþeli vid alla þá, sem naudstaddir vóru og Hennar leitudu; ad Hún ydkadi þessar ættgengu dygdir, var ad líkindum, med því Hún bædi var ættrækin, sinnar Ættar og Íslands Dætra sómi, en þared Hennar eptirlátsama, ástfólgna Ektamanns hjartalag samsvaradi Hennar og hvat

eining og mannkjærleiki, ástsemi og góðgirni, dygð og Guðs ótti haldast í hendur, þaðan er von góðra verka og þángað mun sífeldt blessan streyma af hæðum í stað þess jarðneska, sem til var kostað að ávinna sér Guðs velþóknun og góðann orðstýr. Hverja Húsmóður hafa hjú elskað innilegar? hverri hafa þau þjónað fúslegar? hjá hverri vildu þau fremur lifa og deya, ef þeim hefði mátt þess auðið verða? Því standa einnig þau grátþrúngin í nánd við gröf Hennar og sakna mjög sinnar hugljúfustu og bestu Húsmóður!

O! allir Þér, er nú syrgið yfir fráfalli þessarar sárt-þreiðu Höfðíngsfrúar! Sefið Yðar sorg! þakkið Gjafaranum allra góðra hluta fyrir Hana og þá tíð, er Yður var leyft að njóta Hennar ástúðlegu umgengni! Þakkið Guði fyrir Hennar lausn frá þessarar veraldar mæðu og þjáníngum! Gjaldið honum þakkir fyrir það lýsandi eptirdæmi, er Hún gaf, uppá enar fegurstu og ágætustu dygðir og þá sannkristilegu þolinmæði, er Hún auðsýndi í öllum þeim líðunum, er honum þóknaðist

Henni á herdar ad leggja! Gledjist, ad Hún sigri-hrósandi hefir náð því eptiræskta takmarki, því fyriheitna fagnadar landi, hvar Hún um alla eilífd mun dýrdleg laun úr býtum bera! Öllum oss þykir ad sönnu ad Hennar návistatími hafi of-stuttur ordid — og þad er ad vísu ecki án orsakar! En hversu lengi skyldi svo elskuverd og ágæt manneskja á medal vor dvelja til þess, vér segdum, ad Hún hefdi nógu lengi lifad? Þykir oss ecki ad Hún ávalt hafi oss ofsnemma yfirgéfid? Nej! mögl-um ecki! Sá mikli Fadir á himnum sá þá hentugustu tíd og mildilega kalladi hann sitt elskulega, fyrir eilífdina fullþroskada barn, til baka í sinn födurlega fadm. Hans rádstafan er einskjær speki og nád; hans vegir eru óransakanlegir!

Þig, sorgbitni, sárt-tregandi Eckjumadur, háttvyrdti, gódi Bródir! Þig skyldi eg sérílagi ávarpa med huggunar-ordum; en — mig brestur krapt og ord og bid því, já, bid alla nærstadda Frændur Þína og vini ásamt mér ad bidja vorn sameginlega nádarríka Gud ad hugga

Þig og styrkja til ad bera þenna missir med þolinmædi og ljúfri audsveipni undir hans vísdómsfullu rádstøfun! Seig audmjúklega med Job: Drottinn gaf; Drottinn tók; Drottins nafn veri lofad og vegsamad! Lát þá fagnadar-ríku von, at Þín sárt-tregada Framlidna, er hér var Þín unadsemd, Þín adstod, Þín Heidurs-kóróna, Þitt Allt, ad Hún minnist Þín og elski Þig; ad Ydkur muni audnast aptur ad sjást og umfadmast í eilífum kjærleika og fridi. Lát þessa von géfa Þér krapt til med þolgjædi ad þreja þessa stund til sælufullra samfunda um alla eilífd! Undireins og Þín sæla Ekta-frú fór til sinna sønnu heimkynna, í fadm undangenginna, fullsælla Barna, eptirskildi Hún vid Þitt titrandi, elskandi brjóst, í Þinna hágøfugu og ástríku Foreldra kjærlega fadmi tvo elskulega Smælíngja, ja, þessa einkar efnilega tveggja nú adskilinna hjartna elsku-panta; þá fól Hún ørugg, nærst Gudi, Ydur þremur á hendur til fødur- og módurlegrar adhjúkrunar, umønnunar og handleidslu; þeim mun og í øllu því, sem unnt er, gengid verda í módur-stad. Þar lýsir Þér

daglega Hennar ímind! Hennar loflega minníng gledur Þig, gledur alla góda!

Allir vér, sem nærstaddir erum á þessum Sorgar-fundi, til ad veita vorri sárt-saknudu sælu Frú þá seinustu þjónustu, látum oss, undireins og vér bródurlega lídum med lídendum og grátum med grátendum, upplypta vorum augum frá sorgengilegleikans ummerkjum, frá gröf og forrotnun, til himna upp, hvar ljóssins og lífsins mikli Fadir ríkir og med ódaudlegleikans inndælu von í vorum sálum framstynja þeirri audmjúku bæn til hans: ad hann vilji gefa oss öllum krapt og nád til, svo ad laga vorn lifnad, ad vér harmdauda á jordu, sigrandi í dauda, sælir á himnum mættum Gudi og vorum Lausnara eilífa lofgjörd syngja med vorum ástvinum! Amen!



Líkid var sídan úthafid og þetta jardneska vorrar sálugu Frúar Sigrídar Stephánsdóttur Stephensens, jardsett hjá sinni, árid ádur, framlidnu Dóttur, Mörthu Maríu, til fóta Födur-Afa hinnar og Ömmu, í náviſt margra vid Utförina fylgjandi Lands-höfdíngja, Ettmanna, Vina, Fyrirmanna og heima- og annars adkomu-fólks, fyrrnefndann 20ta Nóvembr. 1827, hverra sameiginleg saknadar tilfinníng var augljós af sjöldans Samsorg.



Fylgjandi

# Erfi=Ljóð

eptir sálugu Frú

## Sigríði Stephánsdóttur Stephensen,

eru innsend til Eckilans

Vice Jústíts-Sekretéra O. M. Stephensens.

## Hugar=reik

á andláts stundu sálugu Frúar

Sigrídar Stephánsdóttur Stephensen,

þann 2ann Nóvembr. 1827.

Lá eg sút-fullur,
en svefn mig lét
silki=fingrum fjallad;
lédi þad ró
líki dofnu
en sálin sorgfull vakti.

2. Leid því hugur minn
ljós=hrodum fæti
heims um breidar bygdir;
leitadi þess,
er lengi saknar,
en fann ei þad, er fýsti.

D

3. Sá hann daudans
mind
og dapra skugga
hvar, sem horfa nádi,
vildi því heim
horfa aptur
og í sitt fángelsi fara.

4. Kom hann ad líki
mínu
litum horfnu
og hrylldi heldur vid,
þókti ei fýsiligt
þar ad búa
og leid því aptur út.

5. Hefdi þá háldid
heims úr bygdum
og aldrei aptur horfid,
ef ei leyni-band
frá líki mínu
hefdi hans ætlun aptrad.

6. Stadar hann því
nam
med sturlun [illegible]iga
og horfdi himins til;
vænti hann þadan
veitt sér mundi
ró og rauna-léttir.

7. Geisladi sunna
gullnum ljóma
á því breida-bliki,
var hún þó heldur
hell til vidar
og sýndist ad flýta ferd.

8. Hugsadi hugur
minn:
hér má líta
ímind lífs, sem lídur.
Grét þá hugur minn
og himin lengi
sálar sjónum leiddi.

9. Huga þá í einu
vid eyru slóu
náklucku drunur dymmar,
undirtók í lopti
og endurtók,
fór hann af felmtri saman.

10. Leit hann í vestri
lágt frá jörd
hverfa ljós til hæda,
var þad, sem geisli
eda glampa-skot
af fyrstu stærdar stjörnu.

11. Leid þad hradfara
en hug þad furdar

hve þad ljós of lýsti;
ýr því fegurd meir
sem ofar kom
og fjærr var følskva jardar.

12. Opnadist þá hisin
augum huga,
sá hann sælu-stadi;
var þá sem heimur
hvirfi' honum allur,
eda í felur færi.

13. Sá þá hugur miñ
himin-gæddra
sálna fyrna fjøld;
øll þeirra adferd
ædri lýsti
sælu, enn segn tilnái.

14. Þóktist eg vita
ad þar var reistur
hástóll himna Drottins;
sá eg hann ei,
því sjón mín daudlig
glaptist af glíum jardar.

15. Hóf þá himin upp
hvellum rómi:
blessud sú, sem kémur!
Sigrídur Dóttir
vors sæla Vinar
Stepháns, sem allir unntu.

16. Sá eg þá hvar leiddu
lofsælir tveir
Fadir og Fodur Afi
himinborna Frú
heimi mista
Sigrídi Stephánsdóttur.

17. Fylgdi þeim fjøld
frelstra sálna
heims úr hættu naudum,
ýngri og eldri,
en þær allar vóru
fullar fjørs og sælu.

18. Þóktist eg þeckja
í þessum flocki
Børn mín bædi tvø;
grét þá hugur minn
gledi-tárum
og þackadi þeirra-lausn.

19. Géck hópur þessi
gud-sifjadi

ad hástól' himna Drottins,
sem endanlegri sjón
er allri hulinn,
nema í vísdóms verkum.

20. Féll því flatur fram,
en Fadir Anda
mælti af megin-blídu:
— öllu', er lífs anda
í sér hefir,
veitir sú líf og lukku —

21. Kom þú hér blessad,
barn mitt kjæra!
Sigri heitin sála!
Er þér hér búin
eilíf sæla
og frá eilífd ætlud.

22. Gaf eg þér líf,
en þú líf þad hefir
brúkad til uppheims yndis
til heidurs sjálfri þér,
en heilla ödrum.
Þess skulu laun þér lagin!

23. Gaf eg þér sálar
gáfur meiri
eñ mörgum minna barna,

æfdir þú þat
í öllu gódu.
Þess skulu laun þér lagin!

24. Gaf eg þér metord
á mannlega vísu,
en þú meira mattir
sannhelgann adal
sálar þinnar.
Þess skulu laun þér lagin!

25. Gaf eg þér jardneskt
góts til ráda,
þú ei þitt þad meintir.
en mín vegna býttir því
brædrum þurfandi.
Þess skulu laun þér lagin!

26. Gaf eg þér frídleik,
en fegurd sálar
og mind mín mest þig týdi,
gádir þú ei hins,
en geymdir þessa.
Þess skulu laun þér lagin!

27. Sendi eg þér sjúkdóms
sorgir þúngar,
svo trú þín taki vextum.

Reynd er trú þín
og rétt fundin.
Því skulu laun þér lagin!

28. Vel hefir þú varid
veittu pundi
og trú mér trausta haldid.
Vel hefir þú strídt!
vel hefir þú sigrad!
far í fögnud þins Herra!

29. Ástvini þína,
sem eptir þreja
og þig med söknudi syrgja,
mun eg úr heimi
þíngad leida
þá minn er tækur tími.

30. Þángad til mun eg
þeirra gæta,
svo eckert ad þeim gángi,
þad, sem ei þénar
þeim til besta,
svo þeir ad sælli verdi.

31. Svo mælti algódur
Alda Fadir.

Himinbúar hlýddu
í þegjandi audmýkt;
þacklætis sídan
hófu Hallelújah!

32. Vildi hugur minn
halda þángad
og þann flockinn fylla;
en þá raust ein
vid eyra qvad:
Senn! ad sinni ecki!

33. Margt áttu ad líða,
margt áttú ad gjöra
ádur þar koma kunnir;
trúudum í þrautum,
trúum í verkum
er þar vera vís.

34. Þá fór hugur minn
þúngum fetum
gladur bædi og grátinn,
í þad hreysi
hvar ádur bjó,
hvadan leysast lángar.

Th. Sveinbjörnsson.



# Samharmur
vid háttvyrdtann og elskadann
Fotnvin og Velgjerara
## Herra O. M. Stephensen,
Vice Jústíts - Sekretéra.

1.

Oldin gladdist. Apaldur frá stofni
Adals dýrstum runninn harma fól.
Saknadar ad svidi mengi dofni,
Sætar fleirst af greinum vonir ól;
Idgjeld þóttust ega dýrst ein þar,
Sem ímind besta Fødurs Dóttir var.

2.

Hyggja frábær, hjarta vidqvæmt, rausnar-
Hend orlát, er vesslum opin stód:
Hrelldra, svángra, hrumra, þyrstra, lausnar
Hvers vid bol, mannkjærleiks aldrar glód:
Badm vid færdu apaldur í ætt,
Hvers aldin margann lífgad hefdu' og kjætt.

3.

Hógværd ljúflynd, hugqvæmt lítillæti,
Hegdan kurteys, gódfúst ordalag,

Meiddra hnjódi málstad fúst er bætir,
Mæddum líkn og vorkun býr í hag:
Blóm-tré fagurt, aldin slík er ól,
Í hlé sínu veitti mørgum skjól.

4.

Hvert er ferdum heitid? hvad er vista,
Haf um æst ef Kári bannar far?
„Innrahólm eg ásett hef' ad gista,
„Adur tídum fann eg hæli þar."
Flestra sama farenda var svar;
Fullreynd vissa, skjól þar flestum var.

5.

Er þess kyn þó drjúpar sakni dróttir?
Dapríst nýtt vid gøfgrar ættar skard?
Elskads þegar Amtmanns Stephåns Dóttir,
Elskud Frú Sigrídur látin vard?
Lífs í blóma bestum kippt oss frá!
Blómans þegar væntum notid fá!

6.

Ydar søknud, Maki hjartkjær! mála
Má sá rétt, sem þad Þér áttud hnoss,
Metur eins og matti Ydar sála.
Margra runninn sorgar tára foss,
Hjúkran trúføst, hjartnæm bæn ókénnd,
Í himin votta þad, af Ydur send.

7. Grát-

7.

Grátið, Fornvin! grátur opt er skylda;
Grátiun líksem Feðurs herrar hend;
Yð..r trega, mest er grátið, milda
Má sú vissa, jarðar frí við bend,
Elskuð sál lét eptir dæmið fríðt,
Æðra líf og sælla birjar nýtt.

8.

Sami gaf og svipti bestur Faðir;
Sinna jafnan til ástríkur man.
Harmið þá ei meir, af Guði glaðir!
Grát afþerri blíð sú tilhugsan:
Í Feður-húsa finnumst sælum reit,
Fjærri sótt og deyð, er bandið sleit.

9.

Herra kjærsti! Yður ásamt grætur
Allra góðra, Hana er þecktu, safn.
Gleðjist samt að gleymast aldrei lætur,
Góðra manna rómur Hennar nafn!
Henni móti himnesk unan hlær!
Harmdauð varð Hún mørgum nær og fjær!

10.

Lísa pantar. — Látið gleði hjarna!
Ljúft skal yndi þá um dygða stig

Móður leiða mistrar, Yckar barna
Minnast Drottins líkn vill føðurlig.
Heileg von sú harma létti slóð:
Hittast fullsæl Børn og Móðir góð!

Auðmjúkast af
Þ. Bödvarssyni.

---

# Saknaðar Ljóð
við fregnina um fráfall
## Frú Sigríðar Stephensen,
*Vice Jústits*-Sekretéra-innu.

---

Lagið: Mjøg er nú hljódt í saungva sæti.

I.

Hví er svo dymmt í dýrum sølum,
Dynur við múra sorga hljóð?
Hví fyllast hús af harma-tølum,
Hrynur af augum tára-flóð?
:,: Hví Garðars-eyar annes hvert
Ansar bergmáli: það er verdt? :,:

2.

Mund'ei orsök til ærnra harma,
Ef úr hádegis hvirfi stad
Sólin í burt med birtu' og varma,
Vikſvertu mirkri lysti ad?
,;, Videyar Klaustri kjör áhæck
Kreptugur daudinn skapad féck. ,;,

3.

Hans áhlaup grimmt til felldi foldar
Frúna Sigrídi Stephensen,
Lífs úr hádegi hneig til moldar,
Húsprýdin varla fegri sjen.
,;, Maka, Börn, Vini væta tár,
Já, vandalausra deprast brár. ,;,

4.

Fegurd, blídlyndi frábær vóru,
Fögnud, sem Maka veittu mest,
Húsſtjórn, trygd, gædska hér ad fóru,
Hjúum og Börnum Módir best;
,;, Gudrækin, líknsöm veslum var,
Vitsmuna snildin frammúr skar. ,;,

5.

Lítst ei kin þó um legstad renni,
Lengi Aettmanna stórfelld tár,

Þar adra, sem ad unntu Henni,
Angrar þúnglega missir sár.
,:, Huggumst! sálin â himnum skín
Og hjá oss dygda minníng sín. ,:,

6.

Mætustum Fødur mætust Dóttir,
Mætri alin á gæfu-stund,
Ospart Hans dygda erfdi gnóttir,
Arfi þeim héldt ad grafar blund;
,:, Sannkristinn lifdi, leid og dó,
Ljómar því Engill sæl í ró. ,:,

7.

Dagleg var Hennar úngdóms ydja,
Ødrum gódsemd og lids-ord tjá;
En, sem Húsmódir, styrkja' og stydja,
Stødug í dygd, þá til réd ná.
,:, Hennar líferni himins braut
Heita mátti, uns vegferd þraut. ,:,

8.

Ad Hennar dæmi, Islands Dætur!
Elskid Drottinn og rækid dygd,
Yckar svo lisi lofstýr mætur,
Lengi um Fóstur-jardar bygd,

,:, Allt-

„:„Allteins og Hennar aldrei má
Eptirkomendum deya hjá. „:„

Þannig minntist þeirrar Framlidnu
Jóhann Thómasson.

---

# Rauna-Tolur
til
## Sydridar Þorvaldsdóttur,
undir Nafni hennar.

---

1.

Megn hjarta mæddi sút,
Mest horfid yndi frá,
Ramt harma reirdann hnút
Rómur meir strengdi sá,
Er hermdi einka bestu
Ástvinu mína ordna nál

2.

Hér var nýtt sár á sár!
Sorgar eg nístist flein.
Dögg saltri dreifdust brár.
Dauda þá kénndi mein,
Trúfastur Fadir beggja,
Hvers blída holl á bádum skein.

3.

Hann rédi': af hollum badm
Hugljúfust mig ad grein
Sinn ástar felldi' í fadm;
Fridadist sorgar qvein.
Eg reyndi' hans ástum vafin
Ad sólin eptir skúra skein.

4.

Mótgángs þó elid margt
Mér birgdi gledi sól!
Aptur skein endrum bjart,
Armædu hretin fól.
Jafnódt hel jód burt hremmdi
Er þrautum medur þyngstu' eg ól.

5.

En loks mér audnast lét
Alfadir himnum á
Merg eptir mædu hret
Minn lífs ávext ad sjá.
Unad þad ól mér stærsta
Því nýa láni fagnad fá.

6.

Eins og skin eptir jel,
Upprann mér gledi-sól,
Dagvextum dafna vel
Dýrst sjá hnoss mitt vid ból,
Og saklaust láta í skjósi
Fræ duldra þánka', er endin ól.

7.

En eckert lengur enn léd
Lán er! Það reynt eg féck!
Sól gledi', er hafda'g sjed
Í sútar haf undir géck,
Er blída sá barn-kind mína
Um spennta daudans herdum hleck!

8.

Unadsemd, árin þrjú
Af únga' er mínum beid,
Öll hversa nádi nú,
Regg harmur sundur sneid,
„Betra' aldrei eiga' enn missa;"
Hvíslaði' opt sorg um hyggju leid.

9.

Sorg djúpt þó særdi géd,
Svølun ei litla' eg þág.
Opt Drottins ord mér réd,
Opna svala lind þá,
Handleidsla' er hans á sínum
Og vissa' um heimvon veita má.

10.

Og bestur ástvin minn —
Eins harmþrúnginn, sem var —
Hollur þó helmínginn,
Hjarta mitt þeirrar skar,
Sorgar, ofan á sína,
Medur nærgjætni mestu bar.

11.

En bædi áttum tvø
Ósopna harma skál!
Arin þrjú um og sjø
Ein best, er þeckt hef, sál,
Unnusta ástkjærs Systir,
Í trygd vid ockur hvergi hál.

12.

Hún hverrar hofdíngs lund
Og huggvæmt ástar géd
Eg hafdi alla stund
Elskad, vyrdt, heyrt og sjed,
Eins frá mér slítast átti
Og hníga kaldann hels á bed!

13.

Hvenær sem helzt vid lá
Hún mér æ reyndist best;
Opt svipti ángurs þrá,
Opt gladdi, styrkti mest,
Jafn trúføst æfi alla
Sér Hennar trygd mig hafdi fest.

14.

O! hvílík adal dygd!
Ecki mun eg þó ein,
Hjá, sem í hugar bygd
Harma- seknudur- qvein,
Vekja má. Margir finna,
Ad sús Hún bætti manna mèin.

15.

Ó! minn Guð! undarlig
Opt er mér stjórnan þín!
Eg tilbið auðmjúk þig,
Öll lífskjör fel þér mín!
Umsjá þín trúfest eina
Um tíð né eilífð aldrei dvín.

16.

Þó vina fæcki fylgd,
Á ferð svo verð' eg ein,
Leið ókunn, lítil-filgd,
Lausa mig kann við mein
Feðurhend þín framleiða;
Því skal mitt bernsklegt þegja qvein.

17.

Eitt veit eg það, þín end
Ástvina hjarkjær mín!
Lasins við líkhams bend,
Laus, þar nú fagurt skín,
Hvar mér um eilífð alla
Nær eckert banna að njóta Þín.

18.

Því skal eg þreya í kyrrð,
Þó sútar lýist qvern,
Og vinum verði' eg firrð,
Vísar mér líknar gjörn
Hönd Guðs hólpinni þángað,
Sem foðmumst við og beggja Börn.

Hjartanlegast af
Þ. Böðvarssyni.

# Vid Andlát

# Frú Sigridar Stephensen,

þann 2ann Nóvembris 1827.

---

Nam eg í æsku
Ad eg skyldi
Gódum Gudi treysta
Og álíta
Allt þad mætir
Hans af gædsku géfid.

Opt var þessi trú
Yndis bætir,
Opt hún ángur deyfdi,
Þvíad eg einatt
Ecki skildi
Gott hvad böl gjöra mundi.

Var þad helzt tvisvar
Ad vasi slíkur
Brjóst med böli þjádi:
Fyrst þegar deydi
Drottna sómi
Ágætis Amtmadr Stephón

Og nú, þá burthrelf
Aptur daudi
Ellztu Amtmanns Dóttur,
Frú Sigrídi
Sigrídar jafna
Mætrar Födurmódur.

Þad er ei mitt
Um menn ad dæma;
Sjálfur sig hverr dæmir.
Ordsthrinn lifir,
Prendra dygdir
Sannindi njóta um sídir.

Leyst er mér, þó ad
Lágur sé rómur,
Sællrar Frúr sóma hreifa;
Vissi eg enga
Af Henni bera
Konu í qvenna-skara.

Hennar blídlyndi
Og hjarta-gædska
Man í minnum verda;
Astúd vid alla,
Auma sem ríka,
Vart sér vissi maka.

Man fáráðt fólk
Og févana
Harma Hana lengi.
Hún líktist Födur,
Hvergi gat lítid
Aumann, svo ei hann hresstí.

Gud, sem ad géldur
Gódum og vondum
Eptir athöfn þeirra,
Launar Frú sælli
Sorg hér nidri,
Er Hún bar med blídu.

Mér varstú Módir
Margri betri,
Einn sem elskar sonur.
Af Födur Pínum
Og Pér eg hafdi
Minn heila munad þegid.

(VII — II.)

  

